# Frásaga
um
# Christnibodid á Labradór.

Hér vil eg skýra ydur frá mjøg merkiligum tídindum úr þeirri heidnu verøldu, vísrar vonar þess, ad ydur muni inniliga gledja þad, og uppørfa ydur til ad lofa Gud og þacka þonum. Já, mikill er Drottinn og nafn hans er dýrdligt, þad hefur hann sýndt í raun og sannleika, hvad eptirfylgjandi Saga skal sanna, sem kominn er ad mestuleiti frá Christnibodaranum Kohlmeister, sem í 34 ár bodad hefur Evangelium í Labradór. Landspláts þetta liggur í Nordur-Americu, austan vid Húdsonsfjørd; er heilstórt, en mikid fámennt ad innbyggjurum; þar eru hérumbil 6 þúsund manneskjur tals, er svarar sem rúmliga 3 manneskjum til hvørrar ferhyrndrar mílu í landinu. Fólkid, sem ættad er úr Vesturhálfunni, var fullkomid villufólk og hundheidid allt til midrar (nærstlidinnar 18du aldar. Þad hafdi eingin yfirvøld, og eingin løg, svo hvør gjordi, svo ad segja, þad sem hann vildi, sorgadi fyrir eingu nema kroppnum, og fylgdi blindt sínum spilltu tilhneigingum. Allt landid samanstendur af hardhnjóskuligum fjøllum og ávaxtarlitlum dølum, sem ei géta á móti neinni rækt tekid. Þar er lítilrædi af skógtrjám, og nockrum ætimosa, en dýraskinn er þar ad fá, líka hvalfiska, lax og fleira.

Landslagid er í ýtrasta máta kaldt og hryllingsligt, sumpart kaldara enn Grenland, sem þar er í nánd. Af þessu landi vildi því eingin Nordurhálfunnar þjód skipta sér, þar øllum sýndist þar óverandi, fyrir hardinda skuld. Þessvegna var ecki reyndt til ad boda heim blindu manneskjum, er þar bjuggu, líkfins veg, allt til ársins 1752.

Eckért annad enn glóandi kjærleiki sannra Jesú Lærisveina, og gyrnd til ad hjálpa sálum mannanna, gat þessvegna komid nockrum til ad takast christnibod á hendur millum þessa fólks, og þannig finnada menn var helst ad finna millum Bræðra-safnadarins í Herrnhút. Þar fyrir var fyrst ádurnefndt ár 1752 gjørd tilraun til ad útbreida í þessu hrylliliga og kalda landi, þá yndisligu og vermandi geitsla Evangelii. En sú tilraun misluckadist. Innbyggjararnir tóku med mesta fjandskap móti hvørjum einum framandi. Og nú lidu 19 ár, ádur enn aptur væri af alvøru hugsad til ad boda þar Guds-ord. Arid 1771 gaf sig einn mjøg frómur og trúadur madur, ad nafni Jens Haven, (sem ad uppruna var evrópiskur, en hafdi þó verid nockur ár í Grenlandi), hann gaf sig á eitt stridsskip, í þeim tilgángi, ad verda Christnibodari í Labradór, af því skipid átti ad sigla þar fram hjá. Þegar nú skipid var komid nálægt Labradórs strøndum, þá gaf Kapteinninn á stridsskipinu soldátum sínum þá skipun: ad þeir skyldu skjóta í hel landsfólkid, hvar sem þeir gætu nád því. Nú er þad audvitad, hvad þetta tekid hefur á hjarta þess gudhrædda manns Jens Haven. Nidursleiginn géck hann því inní káhittu sína, og tók til, med brennandi bæn, ad ákalla Gud. En þá vildi

svo til, ad Kapteinninn kom þar inn, og sjer, ad hann reis upp af hnjánum frá bæn sinni, og spyr hann med óþýdri röddu: hvad hefurdú verid ad gjöra? Hann svaradi: eg hefi verid ad bidjast fyrir. Kapteinninn sagdi þa: ecki vænti eg þú hafir verid ad áklaga mig fyrir Gudi! ó þad bid eg þig ad gjöra ecki; þvi eg mun ecki vera í gódum þocka hjá hönum, án þess, þó ecki bætist þad á. Hinn svaradi: ney, eg var af hjarta ad bidja Gud um ad hann vildi miskuna sig yfir þá vesælu innbyggjara þessa lands, og ad hann vyrdtist, med krapti sínum, ad umbreyta ydar hjarta, þeim til góds. Þessi hans ord feingu á Kapteininn mikiliga. Hann tók þessvegna strags aptur skipun sína, og bannadi soldátum sínum, ad gjöra innbyggjurunum þad minnsta mein. En til þess góda Haven segir hann: Ef þú ætlar ad voga þér þad, ad fara til þessa villufólks, þá skal eg láta setja þig strags í land; þó undireins og þad er skéd, læt eg bátinn róa aptur hingad til skipsins, og þá máttú sjálfur sjá fyrir því, hvad um þig verdur. Þessi Guds hetja Jens Haven var nú í mesta máta ánægdur yfir þessu, og þrádi med stórri laungun eptir því augnabliki, nær þad skéd gjæti. Hann komst svo í land, og med inniligasta þacklæti sté hann nú í fyrsta sinni fótum sínum þar á.

Af því hann var nú í grenlendskum fatnadi, héldu innbyggjendurnir hann ecki væri evrópiskur madur, því annars hefdu þeir, undireins og þeir litu hann, skotid hann í hel med bogum sínum. Fjöldi innbyggjaranna kom nú hlaupandi til hans, hverjum hann bendti þá til himinsins med hendi sinni og augna tilliti,

(líka með fáeinum orðum, því hann var ecki máli þeirra aldeilis ókunnugir), og gaf þeim að skilja, að hann hefði friðsamliga þánka til þeirra, og ætlaði að færa þeim góðann boðskap. Síðan slóu gamlir og úngir, menn, konur og børn hríng í kríngum hann, og hrópuðu hvør til annars, segjandi: Þessi maður hefur góð orð við oss; vér viljum af hønum meira þar um heyra; og nú báðu þeir hann að segja sér, í hvørju þessi góði boðskapur falinn væri. Í stuttu máli: koma þessa ypparliga manns, var eigi án ávartar. Hann varð meðal til þess, að sá fjandskapur, sem alltíð verið hafði milli þeirra og evrópiskra, þverraði, þareð einginn evrópiskur gjørði þessum vesælu heiðíngjum neitt mein framar, og þessir ásóktu aldrei heldur meir þá fyrri, með bogum sínum. Þessi vor bróðir héldt þar síðan til; og stuttum tíma þar eptir sendi Bræðra-søfnuðurinn þángað kénnendur, sem hófu sitt postuliga verk í trúnni og kjærleikanum, með djørfúngu. Árlángt erfiðuðu þeir hér, og létu sér ei hugfallast, þó þeir liðu stærsta skort og allslags þjáníngar, mitt í því þeir sáu harðla litinn andligann ávøxt af verki sínu. Þeir létu sér samt ecki leiðast að útsá í trúnni því himneska sæði Evangelii; og biðu í auðmýkt og þollyndi Drottins þægiliga tíma, sem þeir fastliga trúðu, að loksins koma mundi.

Árið 1790, eptir það christniboðið hafði staðið þar 19 ár, kom þángað vor elskuligi bróðir **Kohlmeister**. Þegar hann kom, fann hann að Missjónir (það er: Christni-boðskapur) voru stofnaðar þar á 3 støðum; ein í Okkak, ønnur í Nain, og þriðja í Hoffendal. Í hvørju plátsinu um sig var einn lítill søfnuður, í hvørjum voru alls 90 sálir, sem þó flest-

um, því miður, ókuuuugt var það sanna innvortis líf í Guði. Ekki allsjaldan féllu þeir, sem áður stýrðir voru, aptur til heiðindómsins; en þeir sem við trúna héldu, létu sér, nær því allir, það ytra nafn christindómsins nægja. Þetta var þúng reynslu-tíð fyrir christniboðarana, í hvorri sá góði Kohlmeister hlaut ogsvo í mørg ár hlutdeild að taka. Eptir það hann dvalið hafði þar í 6 ár, fèck hann fyrst að vera við stýrn eins Eskimóara. En samt sem áður, var allt ár frá ári, fullt af andligum ofþurk, og landið sem þakið dauðra manna beinum, eins og Ezechíel spámaður eittsinn fèck að sjá. Eins sorgligt sem ástandið var þar árið 1790, þegar Kohlmeister þángað kom, eins hèldt það áfram að vera allt til ársins 1803, jafnvel þó vor kjæri Kohlmeister, ásamt sínum embættisbræðrum hefði erfiðað þar, og, með óþreytanligum trúskap, útbreidt Evangelium í 14 ár. Hann viðurkénnir sjálfur, að hefði Guð ekki með sínum heilaga anda svo dásamliga styrkt sig, þá hefði hann ekki gètað borið þetta af. Því opt hefði hann — sem í hálf-ørvæntingu — sagt svo við sjálfan sig: hvað viltú vera að gjøra hèr? gètur þú hvørgi annarstaðar eydt þínum manuligum kroptum til stærri nota, í þènustu þíns Herra? Hèr gètur þú eingu góðu til vegar komið, og þín æfi-ár líða svoleiðis út. Margopt kvaðst hann, ásamt sinni trúsystu egtakvinnu, hafa sett sig afsíðis niður, og þannig æpandi upphrópað: "Æ Herra Jesú, hvað ætli þá verði lokfsins af þeim vesælu Eskimóum?" En þá, sagði hann, að þau hefðu opt hughreyst sig aptur við Guðs trúfesti og hans órjúfanligu fyrirheit, og øðlast svo með bæninni nýja huggun og hughreysti trúarinnar.

En loksins kom ad þvi, ad morgunrodinn upprann! Ljósid braust fram úr myrkrunum; og sá dagur Drottins, eptir hverjum leingi hafdi sárþrád, óskad og eptirvænt verid, upprann ad lyktum. Látum oss þvi heyra þad stóra og mektuga nádarverk, sem kraptur Guds i Jesú Christo þar framkvæmdi, og látum oss svo tilbidjandi losa og vegsama þad stóra dásemdar verk almættis hans og nádar.

Á Jólanóttina 1803 héldt einn af Missións- (þad er: Christnibods-) prestunum í Nain, á samkomu einni, kröptuga og alvarliga rædu, út af þessum ordum: "Mannsins Sonur er kominn til ad leita ad því, og hólpid ad gjöra, sem fortapad er!" Presturinn hafdi leitast vid, ad þreyngja þeim sannleika inn í hjörtu sinna tilheyrenda, ad Jesús væri sáluhjálpari, ecki ad nafninu einskostar, heldur í raun og sannleika, og þessvegna gjæti eingin manneskja svo vond verid, ad Frelsarinn ecki vildi gjarnan taka á móti henni, og gjöra hana sáluhólpna, svo framarliga hún sjálf, af hreinskilni og alvöru, girutist, og sárbændi hann um þad.

Á þessari samkomu var þá vid stödd ein stakliga lastafull kona, sem æst hafdi skammarligt og lastafullt líferni ádur, og á hvörri jafnvel sidsamir Heidingjar og hennar eigid ættfólk audstygd hafdi. Manneskja þessi vard, vid áheyrslu þessarar blessunarfullu rædu, kröptugliga hrærd. Hún hugsadi þannig med sjálfri sér: ætli þad sé nú satt, sem eg heyri? Ætli þad fullvist sé, ad Drottinn Jesús sé kominn til ad frelsa slíkar ram-vondar manneskjur, sem eg er; hér í öllum þessum söfnudi er einginn svo argvitugur? Öll hennar syndasekt stód henni nú allt í einu berliga fyrir aug-

um; hún grét mjøg beiskliga og var nidursokkin i djúpustu hjartasorg. Hún heyrdi nú alls eckért né sá framar; því ord þau, sem hún heyrdt hafdi, hljómudu alltaf fyrir eyrum hennar, og ángist hennar vard æ stærri og stærri. Sídan endadi Prestúrinn prédikun sína; og á eptir voru bænir og saugvar haldnir ad vana, og sofnudurinn yfirgaf salinn, og ljósinn voru slockt. Þetta allt skédi, án þess konan gjætti þess nockud, og hún vard allein eptir í húsinu, og sat þar í einhvorju horni í myrkrinu. Eptir þad kom Prestúrinn Kohlmeister skømmu sídar med ljóslykt inní salinn, þar hann þurfti ad gánga í gégnum hann inní annad herbergi, til ad sækja þángad eitthvad. Hann heyrdi þá, ad einhvor var ad stynja; lýsti því í kríngum sig, og sjer svo þessa konu; talar til hennar og spyr: hvad ertú ad gjøra hér? veitstú ecki ad Guds þjónustugjørd er fyrir laungu úti? Hún lítur þá upp med forundrun, verdur rétt sem frá sér numin, og segir þannig: æ eg hefi gleymt sjálfri mér; lofid þér mér ad fara. Hún hleyppur sídan út af dyrunum, og flýtir sér í næsta hús. Þar fellur hún á kné, hrópar og sárbidur: "Æ Herra Jesú! eg hefi heyrdt, ad þú sért kominn til ad frelsa ogsvo þá stærstu syndara; sé þad sannleikur, svo géfdu mér nú ad vita þad fyrir víst! Æ eg er sú allra hrakligasta sképna; en veittu mér, ad eg samt verdi frelsud og sáluhólpin!" Og — hvad skédi! rétt á þessu augnabliki heyrdi Drottinn hennar brennandi bæn. Hún stód á fætur, og vissi sjálf ecki hvad vid sig var framkomid, og fann sig þó ad vera uppfyllta af einslags óútskýranligum fognudi; og sídan skundadi hún aptur heim til síns heimkynnis. Hvor madur, sem hana sá; merkti á

henni einslags óvenjuliga umbreytingu. A yfirbragdi hennar mátti berliga sjá þann fögnud og frid, sem hún innvortis med sér hafdi; því hún hafdi aldrei eins útlitid. En þad sem nú vakti hjá ödrum enn-nú stærri forundrun, voru ord þau, sem menn heyrdu af hennar munni flióta; því þadan útstreymdi eintóm lofgjord og vegsemd, fyrir þad stóra, sem Drottinn Jesús hefdi gjördt hennar sálu til besta. Þetta hærst merkiliga og undarliga tilfelli tók nú kroptugliga á hugi þeirra heidnu; já gjördi jafnvel því nærst sterkustu verkun hjá einni annari konu, sem allt þartil hafdi verid aldeilis gagnstæd ad lifnadarhætti hinni ádurnefndu órádvöndu konu. Hún var nefniliga ein sérdeilis skynsöm og sidsöm kona, sem hafdi stórt álit hjá sínu fólki, og jafnvel sjálfum Missións-prestunum þókti mikid til hennar koma, vegna hennar af náttúrunni rádvanda sinnislags, og óásakanliga lifnadar. Þessi kona sá nú og heyrdi þessa ádursögdu órádvöndu persónu med stærstu forundrun, og gat einganveiginn skilid, hvörsu ad nockur manneskja gæti talad um Jesúm med svo stórri hjartans gledi, sem hún, og fundid hjá sér þvílíkann kjærleika til hans. Þad gét eg þó ecki, sagdi hún, sem þó ecki hefi leift mér þad hid allraminnsta órádvandt ad adhafast; eg finn samt einganveiginn til þvílíks innvortis fagnadar, sem hún. Orsökin var — sem menn skilja meiga — ad hún var réttlát í sínum eigin augum. Ut af þessu vard hún mjög þánkafull og óróllig, og tók ad finna til þess, ad þad mundi ecki svo vel ástadt vera fyrir sér, í Guds augliti, sem hún meinti. Orósemin fór nú meir og meir í vöxt hjá henni; og sjá! Gud lét hana ogsvo, fyrir upplýsingu síns anda, fá ad þeckja,

ad hún var í sannleika vesæl, syndug og straffsóek skepna fyrir hans augsýn. Nú sá hún í sínum fyrri athöfnum ekkert nema óhreinleika einn og syndir. Til skorts þvílíkrar elsku til Jesú, sem hún merkti þá svo yfirmáta sterka vera hjá hinni áður óráðvöndu konu, fann hún nú sárliga. Já, ángist hennar varð svo stór, að hún fylgdi auðmjúk á eptir þeirri til náðarteknu konu, á hvorri hún áður hafði andstygð haft, og ekki viljað einusinni til hennar líta; en nú bað hún hana inniliga, að leggja sér ráð og segja sér, hvörnig hún ætti að fara að því, að verða eins luckulig, sem hún orðin væri. Hún varð yfir þessu svo glöð, að hun tók í hönd hennar, og þær geingu svo báðar í einn afvikinn stað, féllu á kné og báðust fyrir hrópandi sárgrætiliga til Guðs um fyrirgéfningu og náð í Jesú nafni; og svo fór þá undireins líka, svo hjá þeirri skynsömu konu, sem hinni, að láta sig í ljósi ríkdómur guðligrar náðar í Christo, svo hún öðlaðist nú, sem hin, rósemd fyrir sína sálu, svo þær báðar upphófu nú sameiginliga raddir sínar, glaðværar og lofsýngjandi, til Drottins. Skömmu þar eptir urðu og tvær aðrar konur, fyrir þeirra milligaungu, umvendtar til Guðs, og þessar fjórar urðu nú sem eitt hjarta og ein sál. Sífeldliga voru þær í samfélagi, og fögnuðu opt hvor aðra að sér í heilögum fögnuði, féllu síðan á kné, og þökkuðu sínum Herra og Frelsara fyrir alla hans stóru miskunsemi. En bráðliga hlutu þær nú fyrir þetta að mæta mótstöðu og spotti af öðrum. Þeir, sem allareiðu voru skýrðir og heyrðu sösnuðinum til, kölluðu þær hinar sterktrúuðu. En það varaði ekki leingi, þángað til þar framkom almenn uppvakníng meðal karlmanna, kvenna og barna, og

þad nýa líf braust fram, og líkt sem eldblossi breiddi sig út frá einu heimili til annars; svo á stuttum tíma gjördist þar blómligur og lifandi sofnudur Guds, hvørs limir nærstum því allir uppfylltir voru af innilígri elsku til Jesú Christs. Svo vard nú Naín — hvør ádur var sem eydimørk — umbreytt í yndisligann Guds aldingard, og lofgjørd Drottins hljómadi út af hvørjum einum munni. En þetta var þó ad eins uppbyrjan enn stærri hluta.

Látum oss því, elskuligir vinir! framveigis heyra þær dásemdir Guds nádar, sem hann, fyrir sinn heil. anda, hefur í Labradór til vegar komid, frá hvørju sá gódi Kohlmeister skýrt hefur á eptirfylgjandi hátt: Í Ottak, sem var hid annad Missjónspláts þar í landinu, høfdu þeir christnibods Prestar, sem þar voru, ecki sjed hinn minnsta ávøxt af erfidi sínu; heldur þvert á móti reyndt yfirgnæfanliga, hjá innbyggjurunum, hin sorgligustu merki þeirrar stóru spillingar, sem býr í mannanna hjørtum. Margir af innbyggjurunum voru úidursocknir í stærstu lesti og svívyrdingar. Medal þeirra voru þó einkanliga tveir úngir, mjøg óstýrilátir og villtir menn, sem lifdu skammarligasta lífnadi. Þeir voru þó hafdir, svo sem fyrir sendimenn, millum Okkak og Naín. Einusinni færdu þeir Prestinum Kohlmeister bréf eitt, frá brædrunum í Okkak, í hvørju svoleidis skrifad var: "ó ad Gud vildi frelsa oss frá þessum vondú og háskaligu mønnum, því þeir gjøra hér stórann skada, og afvegaleida til ills nærstum því allann sofnudinn."

Annar þessara gudlausu bréfberara hafdi nú ogsvo farid med konu sína med sér til Naín, vid hvørja hann vildi skilja sig, og ætladi því ad færa hana

aptur til módur hennar, sem þar átti heima; og sem hann var þángad kominn, rak hann hana undan sér, inní hús módur hennar, med þessum ordum: "eg vil aldrei framar sjá hana fyrir mínum augum!" Þar eptir fór hann til sinnar eiginn módur, sem ogsvo átti þar heima, en hún var einmidt sú sama skynsama kona, sem ádur er umgétid, og fyrir stuttu var umvendt ordinn til Guds. Hann géck svo inní hús módur sinnar; en undireins og hún sá hann, merkti hún strags, ad eingin umbreyting til gódś væri hjá þessum hennar syni skén. Med einslags mjøg alvarligri røddu — sem henni eiginlig var — spurdi hún han: "hvad hefur þú ad gjøra hér?" Hann svaradi: "eg kom híngad med bréf, og svo líka fór eg med konu mína til módur hennar, því eg vil ecki hafa med hana framar, heldur ætla eg, ad taka mér eina adra." Módurinn, án þess ad svara syni sínum einu ordi, þar til, snýr sér vid frá hønum, kastar sér á kné, mænir augum til himins upp, andvarpar og seigir, midt í því hún bendir med hendinni á son sinn: "Æ sjá þú, Herra Jesú! Þarna er hann sonur minn; hann geingur enn=nú sífeldt á veigi til glotunarinnar, og hann verdur vissuliga fortapadur, ef þú ecki lagfærir hann; en þú gétur vissuliga snúid hønum á rétta leid! Æ miskuna þú þig þá yfir hann! og svo frv." Medan hún svoleidis badst fyrir, komu líka svo adrir ad, úr odrum húsum, þar í nánd, féllu á kné ásamt henni, og bádu inniliga fyrir syni hennar. Á þetta þoldi hann ecki leingi ad heyra, heldur vard fullur af óróssemi og ángist, og hljóp sinn veg í burtu. Nú hafdi kona Prestsins Kohlmeister búid til handa bádum sendimønnum heita matarmáltid; en sá sem af

ángistinni var fullur ordinn, hafdi skundad til þessa herbergis, hvar og stallbródir hans hafdi bedid med óþolinmædi eptir honum. Nú var búid ad bera matinn á bord, og tvær skeidar hjálagdar; og í þessu sama herbergi sat Kohlmeister, vid eitt skrifbord, og sneri bakinu ad komumonnunum.

Svo tóku þeir til ad matast; en sá annar þeirra, sem kom frá módur sinni, vard æ meir og meir óróligur, stundi og andvarpadi þúngliga. Hinn annar, þegar hann merkti þetta, spurdi hann þá: "hvad geingur ad þér? eda, hvad er þad, sem þú vilt?" Hinn svaradi: "æ mér er svo þúngt, mér er svo þúngt!" Presturinn Kohlmeister, þegar hann heyrdi þetta, hugsar: hér hefur víst eitthvort sérligt tilfelli skéd. Hann snýr sér þá vid, og spyr hann sem tilfinníngarlaus var: "hvad heitir þú?" Hahn svaradi: "eg heiti Kapik." "Viltú þá alltaf vera Kapik?" spyr Presturinn; "já, svaradi hinn, eg vil æfinliga vera Kapik!" (meiningin var: eg vil aldrei láta stýra mig; eg vil aldrei verda Christinn). Kohlmeister svaradi: "Nú bordadú þá og vertú róligur." Presturinn vard nú og fyrst var vid þá stóru trublun og ángist, sem hjá hinum odrum var, því hann hafdi nefniliga snúid í órádi skeidinni ofugt vid, í hendi sér, og þessvegna gat hann ekkert af matnum sér til munns borid. Sá annar gat þá ekki heldur afborid, ad vera hjá þessum sinum svo ángistarfulla stallbródur, kastar því frá sér skeidinni, og hleypur út af dyrunum. Þegar hann kémur út, talar einn annar Missjóns-Prestur til hans þessum ordum: "Ætlar þú þá aldrei ad þeinkja um velferd þinnar ódaudligu sálar, og halda alltaf áfram þinu syndsamligu líferni? ætlar þú aldeilis ekki ad

umvenda þér?" Hinn svaraði: "O, eg veit ekki hvað það er að umvendast;" og í því hann sagði þetta með harkaligri raustu, hljóp hann sinn veg til skyldmenna sinna — því hann átti þar fyrir einn móðurbróður — til að vera þar um nóttina. Nú sem hann kom þángað, finnur hann, sér til stærstu forundrunar, allt heimilis-fólkið fallið á kné, gjörandi sína kvoldbæn til Guðs. Þetta heimili var, fyrir stuttum tíma, trúað orðið; og það sem ennú meira tók á hann, var það, að hann heyrði að móðurbróðir sinn var hjartanliga að biðja fyrir sér. Hann lætur þá vísa sér, svo fljótt sem verður, á rúm til að sofa í, og leggur sig síðan til hvíldar; jafnvel þó hann um alla nóttina á eptir, gjæti alls einga ró fundið eður haft. Það sem skéð hafði þennann dag, og einkanliga það, sem hann sjeð og heyrdt hafði í húsi frænda síns, hafði gjørdt mjøg sterka verkun í hjarta hans, svo hann var svo fullur af óróssemi, að hann gat alla nóttina alls ekki aptur-látið augu sín, til að taka sér svefn.

En hvornig fór nú fyrir hinum hans ángistarfulla stallbróður? Eptir það hinn var í burtu kominn frá honum, kastaði hann líka svo matskeiðinni frá sér, geingur í ákefð til og frá um stofugólfið, og, rétt eins og hann væri í ørvæntingar óráði, sleit af sér hárið, reif í sundur yfirhøfn sína og hrópaði þannig upp: "O, því er eg svo vondur! eg verð fortapaður, eg verð víst fortapaður!" Nú sneri Presturinn Kohlmeister sér að honum, og spurði hann: "hvør hefur sagt þér, kjæri vin! að þú svo vondur sjert, og að þú hljótir endiliga að fortapast?" Hinn svaraði og sagði: "Æ eg hefi verið hjá henni móður minni, og hefi heyrdt þar svo hørð orð, að eg alla mína lífdaga hefi

ei önnur eins heyrdt. Þau ord voru ofhörd, ofhörd fyrir mig." Nú tók hann til aptur ad upp hrópa, ad hann svo vondur væri, og undireins í sama augnabliki lét hann í ljósi fyrir Prestinum Kohlmeister alla sína lifnadar sögu, og líka sem í einum andardrætti upptaldi fyrir honum alla þá glæpi og skammir, sem hann framid hafdi. Þá sagdi Presturinn Kohlmeister honum, ad sannarliga væri hann stór yfirtrodslumadur, en þad skyti þó samt ecki fortakslaust þar af, ad hann hlyti fortapadur ad verda; því til þess væri hann, sem Jesús nefnist, í heiminn kominn, og ad hann væri fús til, líka svo ad hjálpa honum, og fyrirgéfa honum allar hans syndir; hann hlyti adeins ad taka sitt tilflugt til hans og grátbæna hann þar um; og þó hann gjæti eckért annad sagt, enn upp aptur og aptur: "Æ Herra Jesú, Sonur Guds, miskunna þú mér," (ef hann gjördi þad med sárheitri hjartans laungun), þá væri þad vissuliga nóg." En framar sagdi Presturinn vid hann: "heyrdu; þad skal vera oss til merkis um þad, ad þad sé full alvara þín, ad leita nádar hjá Gudi: ad þar sem þú hefur flutt konu þína híngad aptur, og vilt reka hana frá þér, án gildra orsaka, einasta til þess, ad þú getir tekid þér adra í hennar stad, ad þú þá takir hana aptur til þín; því hitt stridir aldeilis móti Guds heilaga vilja, sem ecki vill láta þvílíkt ské." Þetta ad gjöra var nú ecki þad léttasta fyrir þennann stærriláta mann, og ad láta þad á móti sjálfum sér. En hann hleypur samt undireins til módur sinnar, og bidur hana ad fara med sér þángad, sem kona hans var. Þegar hann kémur þángad, hrópar hann upp og segir: "Kona mín er sannliga gód kona, en eg sjálfur er mjög vondur

madur; hún hefur mér aldrei neitt illt gjördt; en eg hefi opt illa med hana farid; æ ad kona mín vildi nú fyrirgéfa mér þetta, og fara aptur til mín; eg skal aldrei framar meir ángra hana." Konan, þegar hún heyrdi þetta, grét fagnadar-tárum, fleýgdi sér aptur fúsliga í fadm hans, og vildi gjarnan vera hans kona framvegis. Imindi nú hvør einn sér, sem þetta heyra, hvørsu merkiligt tilfelli ad slíkt var! Hvørsu hlýtur fyrst og fremst módir hans sjálfs, ad hafa ordid til finnis, þegar sonur hennar — fyrir hvørjum hún einni stundu ádur, med svo sárri og ángistarfullri tilfinníngu, hafdi grátbænt til Guds — þegar hann nú í nærsta sinn kom aldeilis umbreyttur til hennar, ó hvørsu, segi eg, hlýtur hún vissuliga ad hafa álitid þetta tilfelli bersýniliga Guds bænheyrslu uppá sitt brennandi ákall til hans, fyrir þessum syni sínum! Já, hvad mun sjálfri konu hans og módur hennar hafa fundist, þegar þessi ádur óstýriláta manneskja, sem skømmu fyr líkar var einum úlfi, kom nú aptur, ordinn rétt eins og annad meinlaust lamb. Á fáum augnablikum vard nú hér, øllum til innilegustu gledi, øll þessi sok, á besta máta í lag sett, og nú skundadi þessi ángurbitni madur strags aptur tilbaka til Prestsins Kohlmeisters. Hann tók svo á móti honum og fór med hann, eins og Paulus og Barnabas fordum med fángelsisvaktarann; og sjá! þar uppfylltist líka á honum dýrdliga þad stóra Guds fyrirheit: "þó ydar syndir séu raudar sem blód, skulu þær snjóhvítar verda!" því þegar hann, midt í sinni hjartans ángist, kom til Jesú, vard hann ekki burturekinn, heldur fann hann rósemd fyrir sálu sína, ásamt med fyrirgéfníngu allra sinna synda.

Hinn annar stallbródir hans kom sídan annars

morguns snemma, fullur af stærstu ángiſt og óróſemi til Prestsins, og fann undireins til þeirrar þryckjandi og plágandi byrdi synda sinna, og spurdi hann med áhuga: hvad á eg til ad gjøra? og hann hrópadi i sifellu: æ eg verd fortapadur, því eg er svo vondur! En þessi madur fann þó, einsog hinn, Guds nád i Jesú Christo, hans elskuliga Syni, og svo hrósudu bádir þessir stórsyndarar sigri, og lofudu af øllu hjarta Gud fyrir sina nád. Nú vildu bádir þessir úngu menn gjarnan ecki þurfa ad fara heim aptur til Okkak, allra sídst sá annar þeirra, sem vissi ad sú slæma persóna, hvørja hann ádur hafdi ætlad ad taka i stadinn fyrir konu sina, átti þar heima; því hann óttadist ad hún kynni aptur ad afvegaleida sig, og steypa sér i ólucku. En Missjóns-Prestarnir álitu þó gott, ad hann skyldi aptur þángad fara; en lofudu honum, ad þeir skyldu bera umsorgun fyrir, ad sú nefnda kvennpersóna ecki skyldi géta ordid honum ad snøru; þar þeir skyldu skrifa til Missjóns-Prestinum i því héradi, ad hann alvarliga sorgadi fyrir, ad sú sama persóna yrdi strags látin fara burtu úr því plátsi, og til þess hérads, hvar hún eiginliga upprunnin var; hvad ogsvo án undandráttar skédi. Hjónin fylgdu svo rádum Prestanna i því, ad fara aptur til Okkak. Og — hvilikan eptirþánka uppvakti þá allt þetta i því sama plátsi! Því þad var náttúrligt, ad þessir menn mundu ecki þagad géta yfir þeim stóru hlutum, sem Gud hafdi látid vid þá sjálfa framkoma. Þeir tøludu þessvegna sifeldlega um og søgdu frá, hvad Gud hefdi vid sinar sálir gjørdt; já, þeir søgdu til þeirra, sem þó voru allareidu ádur skýrdir: "þér erud allir hræsnarar, þér hafid aldeilis ecki Jesúm i ydur, þó skýrdir séud; þér hljótid því

endiliga að umvendast, annars verðið þér allir fortapaðir." Hinir andsvöruðu: "hvað viljið þið hinir aðvaralausu og vondu menn kenna oss? sorgið fyrir, að þér sjálfir betrið yðar eigið líferni." Þá svöruðu hinir: "að vér vondir séum, það vitum vér betur, enn þið getið oss frá sagt, og þið vitið ecki til hálfs um það, hvað vondir vér erum. En við vitum nú líka, að þar er einn Jesús til, sem ockar vegna, svo vondir sem við erum, er híngað í heiminn kominn, til að gjörá ockur sáluhjólpna. Því í Naín þeckstum við og fundum þann Jesúm, sem kominn er í heiminn til að frelsa þá sem vondir eru, og vitum við og finnum, að hann er líka svo ockar vegna kominn. Sú forundrunarliga umbreyting í lifnaði þessara tveggja manna, og það sem þeir töluðu um, og af hvörju þeir hrósuðu sér, gjörði einslags volduga verkun hjá öllum sem það heyrðu. Þetta barst frá húsi til húss og uppvakti óróserni hjá öllum, svo stórkostlig hrygð og ángist greip flestalla í söfnuðinum; og þetta var seint um kvöld, þegar annars að allt var vant að vera komið í kyrð og ró. En nú hafði einn vakið annan upp, til þess, að þeir skyldu fara á fund beggja þessara nýkomnu manna, til að sjá þá og heyra þeirra tal; og að því búnu hlupu menn hópum saman til húss Missíóns-Prestsins, hvar inni þeir sváfu, kloppuðu uppá dyrnar, hrópuðu og æptu. Prestarnir fóru strags á fætur, en vissu þó ecki hvað um var, og voru stórliga frá sér numdir. Þá var þeim sagt frá því, hvað skéð hafði; og nú þreyngdi sér einn eptir annann inn til Prestanna. Allir vildu játa fyrir þeim syndir sínar, og fá að heyra hvað þeir gjöra skyldu til þess að verða

aðrar eins nýar manneskjur, sem hinir. Alla þá nótt var ecki að hugsa til að fá neina svefn-hvíld. Prestarnir höfðu ecki eitt augnablik ró; en það hlýtur þó að hafa verið þeim ein sæt órò og dýrmæt svefnleysis nótt. Því þessir góðu menn höfðu um lángann tíma sáð með tárum; en nú feingu þeir loksins að uppskera með fögnuði, og það þegar þeir síðst væntu. Nú var Drottins tími kominn, og frelsan Guðs var nú orðin hlutskipti þessara Eskimóa. Þetta var berligt Guðs verk, og þessvegna héldst það ypparliga áfram, og í frá þessum tíma bættust nær dagliga nockrir við söfnuð þeirra sanntrúuðu, sem til andligs lífs í Guði komnir voru. Þannig hrósaði þá Evangelium hér ogsvo yfrið störum sigri; sól náðarinnar rann rétt hátignarliga upp, hvorrar glansi burtudreif myrkur áður drottnandi andvaraleysis, og ljös lifandi trúar braust allstaðar fram með himneskum krapti.

Nú var enn-nú hið þriðja Missíónsplátsið eptir, sem nefnist Hoffendal; en hér vildi Drottinn ogsvo innanskamms láta birtast dásemdir náðar sinnar. Meðal þeirra sem trúaðir orðnir voru í Okkak, var maður einn, sem átti úngan frænda í Hoffendal. Með inniligri meðaumkun þeinkti hann ydugliga til þessa únga manns, og gat umsíðir ecki leingur afborið það. Þessvegna spennti hann einn morgun hunda sína fyrir sleða sinn, og tók fyrir sig að ferðast til hans, til að sækja hann þángað, og hafa hann þaðan í burtu. Koma þessa manns, sem af elsku Christs var svo uppfylltur, vakti sterkann eptirþánka hjá fólkinu í Hoffendal. Hann sagði þar frá þeim forundrunarligu hlutum, sem skéð höfðu í Nain og Okkak. Hans úngi frændi komst fyrst mikið við af þessu, og síðan strax á eptir margir fleiri. Þannig tók þá Guðs andi kroptugliga hér líka svo að verka, og lét, með sinni upplýsingu, fólkið taka að þeckja — einkum að sárfinna til — að þeir væru veslir syndarar og í fordæmanligu ástandi; svo þeir síðan tóku að leita sér hjálpar og frelsis einastu hjá Jesú Christo; hvors þeir og síðan urðu, fyrir Guðs náð, hluttakandi; svo maður að stuttum tíma

lidnum gat sagt um Hoffendal: "Ad það gamla væri forgeingið, en allt orðið nýtt aptur."

Í frá þessum tíma hefur boðskapur Evangelii haft í Labradór þá blessunarríkustu inngaungu. Margir urðu af rót til Drottins umvendtir, og sem í allri sinni hegðun sýndu ljós merki þess, að þeir væru orðnir sannir Jesú Christi Lærisveinar; og að 20 árum liðnum, frá árinu 1804 — þegar sú fyrsta almenna uppvakning skéði — voru í þessum 3 söfnuðum, Nain, Okkak og Hoffendal, flokkur 7 hundruð sálna stór, í hverjum að flestir (að vitni þess trúverðugu Prests Kohlmeisters), voru af inniligri elsku til Jesú Christs uppfylltir og gagnteknir. Leingra þar norður frá yfirgáfu margir heiðingjar sjálfkrafa sitt Land, svo stór héruð, sem áður bygð voru, voru aldeilis gjör eydd af mönnum, sem fluttu sig þaðan og tóku sér aðsetur í einu eður öðru af þessum áðurnefndu þremur plátsum í Labradór, til þess að fá uppfræðingu í Christindóminum og verða skýrðir, hverra margir urðu kroptugliga af náðinni til fánga teknir. Svoleiðis komu þángað árið 1824 45 persónur alls, og næsta ári eptir voru, áðurenn Presturinn Kohlmeister burtureysti, enn-nú komnir 21, sem tóku sér þar bólfestu, og beiddust eptir að fá uppfræðingu í Christindóminum. Í frá þessum tíma hafa og síðar mörg slík hjartagleðjandi tilfelli skéð í Labradór, um hvör lesa má í ýmsum skýrslum, sem segja frá útbreiðslu Christindómsins í heiminum; hverjar sögur yfrið uppbyggiligt er að heyra og lesa.

---

Margt má af þessari merkiligu og sönnu frásögu læra:

1) Hvörsu að kénnendur meiga aldrei láta sér leiðast með orðum og verkum að erfiða fyrir annara sálar-velferð, og það eins þó þeir sjá lítinn eður nærri eingann ávöxt af því skjóta.

2) Að sá rétti ávöxtur af þeirra kénningu er ekki aðeins þekking sannleikans hjá tilheyrendum þeirra,

heldur uppvakníng samvitskunnar. Vanti þetta hid sídara, er hid fyrra til lítils.

3) Ad uppvakníng samvitskuunar lætur sig alltíd med sama slag í ljósi, nefniliga med sterku hugarángri út af syndum sínum, og óaflátauligu bænakvaki til Guds miskunnar í Christo.

4) Ad þó ein manneskja sé dável þeckjandi Christíndóminn, og þar ad auki útvortis rádvönd og dygdug, kann hún samt ad vera eldúngis óumvendt fyrir Gudi.

5) Ad þad geingur stundum tregara, ad snúa einum útvortis sidprúdum manni til sannrar ydrunar, enn ødrum lastafullum, því hinn treystir á dygdir sínar, hvarvíd samvitska hans getur skadliga svæfst.

6) Ad sønn umvendan, hvar sem hún finnst, sýnir sig alltíd med líkum kénnimerkjum, innra sem ytra, nefniliga med alvarligri ábyggju og vidleitni, ad efla svovel annara sem sína eigin sálar velferd.

7) Ad einnar manneskju sønn uppvakníng, getur stundum ordid tilefni til uppvakníngar ýmsra annara.

8) Ad brádhendis uppvakníng til ydrunar, verdi hún ecki stødug og framhaldandi, kémur opt ad litlum notum.

9) Ad eckért er Gudi þægra verk, enn ad kosta til þess erfidi og fémunum, ad umvenda Heidíngjum, Gydíngjum og ødrum villtum manneskjum — svo vel sem og andvaralausum Munnchristnum — bædi fjær og nær.

10) Ad dæmi Brædra-safnadaríns hefur ádur verid í þessu, sem ødru gódu, framúrskarandi, jafnvel þó nú séu margar þjódir Christnar, med stóru kappi, búnar líka ad taka þad fyrir sig, eptir þeim.

Gud eylífur blessi þá atburdi, og láti æskiligann ávøxt færa, sér til dýrdar og þúsundum manna til sáluhjálpar!

---

Kaupmannahøfn 1846. Prentad hjá S. L. Møller.